# Auglýsing.

Samqvæmt þeirri 2ari Grein i þeim i Dag, vid enn Hærstrádanda á bretlendska Stridsskipinu the Talbot, gjørda Samníngi, hvar med ockur er á Hendur falin þessa Lands Stjórn um Tíma, í Stiptamtmanns Kammerherra Greifa Trampes Fjærveru, og, samqvæmt hans 4du Grein, hljótum vid hér med alvarlega áskýsa, og þénustusamlega óska: ad sameginleg Yfirvøld, Embættismenn, Borgarar og Almúgi á Islandi, verji allri Umhyggju til, ad koma til Vegar gódri Eíníngu, Velvild og fridsamlegri gódri Umgengni vid þad enska Fólk, sem er hér í Landi, og sem híngad kynni koma, edur høndla og stadnæmast hér á medal vor, til þess ad þeir, af hvørri hellst Þjód, sem þeir vera kynnu, og sérhvørr af oss med sameginlegum Eignum, gætum lifad saman óhult og í Eíníngu, naudsynleg Høndlun og Adfærsla verdi oss unnt midt undir Strídinu, Húngri og Skorti, samt ødrum Strids-Olukkum verdi burtu bægt frá vorum Takmørkum, þeir vid Capitain NOTT, þann 16da Júnii, og þann Hávelborna Capitain JONES í Dag inngengnu Samníngar náqvæmlega haldnir og vyrdtir í øllum þeirra Ordum og Púnktum, þángad til frekara Samkomulag verdur samid í millum þeirra dønsku og bretlendsku Rikja. Einkum felst þad allra Yfirvalda og Embættismanna árvøkru Umhyggju á Hendur, ad kynna sér vel og koma í Veg fyrir sérhvørt þessum Samníngum gagnstædt óvinsamlegt Fyritæki vid framandi Persónur og Eigur, vernda þær jafnt vorum egin, og, ef þeir sjálfir vilja sleppa hjá hørdustu Akjærum til Embættis-tjóns, án Hlífdar strax draga sérhvørn, sem hér á móti brýtur, til maklegs Straffs og Sekta ad Løgum og Dómi.

Einnig auglýsist hér med: ad vid, vegna ockar óhagqvæma Astands, m. fl., høfum komid ockur saman um, ad skipta þannig Embættis-ønnum millum ockar um ofannefnt Tímabil: ad eg, Amtmadur Stephensen, ber Umhyggju fyri þeim Málefnum, er snerta Geistlega, Kirkjur og Prestakøll, en eg, Etatsrád Stephensen, hinu ødru Islands Stipt- og Sudur-Amti vidkomandi. Hvad hlutadegandi Yfirvøld hérmed umbidjast tafarlaust allstadar ad opinbera, til almennrar Vitundar.

Reykjavik, þann 22ann Agúst 1809.

M. Stephensen. St. Stephensen.